# Reglugiørd

# Ferjumanna

í

# Rángár þíngi.



Videyar Klaustri, 1831.

Prentud á opinberann kostnad,
af Factóri og Bókþryckjara H. Helgasyni.



## 1. Kapituli.

### Um skyldur Ferjumanna.

§. 1.

Ferjumadur skal skyldugur vera, ad hafa Ferju-skipid, sem sé mátulega stórt, á hentugasta stad á ánni, en þar sem mikil umferd er, skal hann hafa þeim mun stærri og fleiri Ferjur.

§. 2.

Ferjumadur er skyldugur ad vidhalda skipunum forsvaranlega, og vardveita þau frá skémdum; en ef Ferjan brotnar fyrir vötnum eda vindum, eda á annann hátt laskast, svo hún ecki verdur flutníngsfær, þá á hann strax ad láta

endurbæta hana, svo fær verdi, ellegar fá adra nýa í hennar stad.

§. 3.

Ferjumadur sé skyldugur ad vera svo mann-margur, ad hann flutt fái ferdamenn og góz þeirra yfir ána; ad ødru leiti skal hann sjálfur, og þeir, sem hann ad Ferju skipar, audsýna sérhverjum ferdamanni sidsemi og kurteysi í ordi og athøfnum.

§. 4.

Svo skal hverr fars njóta fyrir sig og góz sitt, sem ad Ferju ber; enginn skal því ødrum fyrr eda fremur flutníng fá, eda krefjast, enn hér er bodid, þó undantakast: Konúngsins Embættismenn og skyndibod þau, sem til þeirra og frá þeim eru send í Konúngleg erindi, Póstar og sérhverr, sem í Embættis naudsynjar ferdast, því þessa skal strax flytja, undireins og þeir koma ad ánni, hvert heldur sem þá er helgur dagur eda rúmhelgur.

§. 5.

Ferjumadur skal ætíd hafa og láta

hafa vakandi auga á, nær einhvern kañ bera ad Ferjunni, á hverjum árſins tíma ſem er, og þar ſem mikil ferd er á, og einkanlega um leſtatíma á ſumrum, ſkal hann ſkyldugur til ad vera ſjálfur vid Ferjuſtadinn, eda láta fólk ſitt vera þar, ſvoad ferdamenn ſtrax, án minnſta farartálma, fái far med góz ſitt.

§. 6.

Komi Ferjumenn ecki innan hálfrar ſtundar, til Ferjunnar, frá því vegfarauda bar ad ánni, og þeim má ſlíkt kunnugt vera, leyfiſt honum, og øllum, ſem þar eru farþurfar, ad taka Ferjuna og brúka hana varúdarlega til ad ferja ſig og góz ſitt yfir óna, einaſta ſkulu þeir, ſem þannig flytja ſig, gánga forſvaranlega frá ſkipinu, feſta þad eda draga uppá land, og ſkorda, og ſkilja ſvo vid þad þeim meginn, hvert þeir fluttu ſig og ſitt; þá gjalda þeir Ferjumanni engann ferjutoll; ecki heldur er ſkipid í þeirra ábyrgd, þó þad fariſt af voveiflegum tilfellum, fyri vatni eda vindi, eda fleiru, þegar þannig hafa umbúid, ſem mælt var.

§. 7.

Skyldt er Ferjumanni sjálfum og fólki hans að róa skipi sínu yfir ána til og frá; hann hefir enganrétt að krefjast þess af ferðamönnum, sem einasta ega sjálfir að bera á og af Ferju, það sem þeir meðferðis hafa, en Ferjufólkið skal taka við því í skipið, niðurskipa því og aptur afhenda það úr skipinu.

§. 8.

Skyldt er Ferjumanni á sumri að flytja, frá því sól kémur upp, til þess hún er sett, en á vetri meðan dagur er á lopti, nema þá í § 4ða tilgreindu konúnglegu Embættismenn og erindagjørða boða, því þeim skal ecki fars synja, þegar þess beiðast, þó um nótt sé.

§. 9.

Ferjumønnum sé fyrirboðið að flytja landprángara, lausgángara, passaleysíngja eða aðra tortryggilega menn yfir ána, því byrjar þeim að fullvissa sig um, að ferðamenn séu útbúnir með reglulegann passa.

§. 10.

§. 10.

Skyldt er Ferjumanni ad skipleggja nautpening og saudfé, en vegfarendur séu útbúnir med naudsynleg bønd; allann annann umbúnad, sem þarf til flutníngsins skal Ferjumadur tilleggja. Hesta er hann ecki skyldugur ad skipleggja, nema eigandi fái svo vid hann umsamid. Engum má Ferjumadur synja þess, ad hestur syndi í taumi eptir skipinu, þar til skulu ferdamenn bønd til ljá; en Ferjumadur skal ábyrgjast hvad marga hesta í senn má eptir hafa, svo skipi, mønnum og fansi sé óhult. Deyi hestur eda naut, sem á eptir er haft, á sundi fyrir vangá Ferjumanns, þá bæti hann skadañ eiganda. Þegar ferdamenn verda ásáttir ad hestar þeirra séu reknir í ána, þá eru þeir ecki í ábyrgd Ferjumanns, þó á sundi farist.

## 2. Kapítuli.
## Um rétt Ferjumanna.

§. 11.

Ferjumadur skal einn ráda fyrir hledslu Ferjunnar og skal hann ábyrgjast ad hverr heimti sitt góts óskémmt úr skipinu.

Sé hann ecki látinn ráda, svo skipid verdur ofhladid, þá hafi ferdamenn skadann í heimgjald, þó gótzid skémmist, eda því verdi í ána kastad.

§. 12.

Ef nockurr tekur Ferjuna í óleyfi Ferjumannsins, sé hann vid, og flytur sig yfirum ána, þá skal sá álitast eptir løgunum. Laskist Ferjan í høndum hans, skal hann bæta Ferjumanni skadann, eptir sem óvidkomandi skynsamir menn metc; sama vidliggur, ef einhverr af þeim, sem verid er ad flytja eda fars beidist, misþyrma skipinu á einhvern hátt.

§. 13.

Eins og Ferjumanni er skyldt ad audsýna Ferdamønnunum sidsemi og kurteysi í ordum og athøfnum, hafa vegfarendur sømu skyldna vid hann ad gjæta; þeir skulu því vera þeim gegnir í hvørju helzt, er vidvíkur Ferju og flutníngi.

§. 14.

Ferjutoll er skyldt ad greida Ferjumañi, ádureñ á skip er borid og áqvardast í hvert skipti, sem farid er yfir ána, þañig:

Rafnverð.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. | fyrir | einn mann á lausum hesti og reiðverið | 6 rbß. |
| 2. | — | einn mann hvern | 5 — |
| 3. | — | eins hests klyfjar og reiðíng | 5 — |
| 4. | — | 2vett eða yngra naut og griðúng eða qvígu, skipslögð | 12 — |
| 5. | — | 3vett naut og eldra, og kú hverja | 18 — |
| 6. | — | eina á með lambi | 3 — |
| 7. | — | veturgamla eða 2vetra kind hverja | 2 — |
| 8. | — | 3vetra og eldri sauð hvern | 3 — |
| 9. | — | einn hest að skipleggja | 24 — |
| 10. | — | einn hest, sem hafður er á eptir í taumi, að frátöldum þeim, sem tilgreindur er undir No. 1. í þessum §. | 1 — |
| 11. | — | hverja nautkind, sem eptir skipi er höfð í taumi | 1 — |

Fyrir hesta, sem reknir eru, borgast ecki; þessi Ferjutollur má þó ecki einskorðast í peníngum, heldur er hann réttgoldinn í

hverjum bodlegum vøru-tegundum, eptir því verdlagi, sem Capítuls Taxtinn á þær leggur.

## 3. Kapítuli.

### Um Ferjuskipun sérílagi og vardveitslu þessarar Reglugjørdar.

§. 15.

Þó tilsettur Ferjumadur hafi einsamall rétt til ad flytja ferdamenn, og þeirra góz, er þad þó leyft þeim, er land ega ad ánni, ad hafa skip á henni, ef þeir svo vilja; en sá má engann farþegja flytja eda góz hans; einúngis sjálfann sig og sitt góz.

§. 16.

Sá sem byggir jord þá, á hverrar lód Ferjumadur flytur, skal ætíd skilin ega frí flutníng fyrir sig og sitt góz á þeirri Ferju, fyrir átrodníng og beit, er hann má sæta af fénadi ferdamanna.

§. 17.

Sérhver óhlýdni gégn þessari reglu.

gjord, bædi frá Ferjumanns og annara hlutadegenda hálfu, vardar sekt, eptir atvikum, frá 4 rbmarki silfurs, sem án dóms og réttargángs útleggst, til tveggja rbda silfurs, sem annadhvert áqvardast vid Pólití-rétt, eda af vidkomanda Amtmanni. Sektin tilfellur sveitar fjárhirdslu þeirri, hvar Ferjustadurinn liggur; þó eignast Ferjumadur helmíng þeirra bóta, sem eptir 2 Kap. tilfalla.

§. 18.

Brjóti nockurr ferdamadur, sem ecki á heima innan Rángárvalla Sýslu móti þessari Reglugjörd, og vidkomandi Hreppstjórar ei eru strax vid hendina til adstodar, sé þad Ferjumanni leyft, ad apturhalda af góßi ferdamanns tveggja ríkisbánkadala silfurs virdi, ef hann hvílíkt ecki gódmótlega útilætur, og skal Ferjumadur þvínærst tafarlaust géfa Sýslumanni sökina til vitundar, til frekari rádstöfunar; á medan þetta framqvæmist, geymir Farhirdir vandlega þá apturhöldnu, eda gódviljuglega af hendi seldu muni.

§. 19.

Sýslumadurinn, og honum undir-

géfnir Hreppstjórar skulu sjá um, að þessarar Reglugjörðar boðum og banni sé hlýðt í einu, sem öðru.

Þannig er þessi Reglugjörð samantekin
Rángárvalla Sýslu Contoiri 1 Júlii 1829.
af
Bonnesen.

---

Denne Instrux for Færgemændene i Rangaavalle Syssel bliver herved i Kraft af det kongelige Reskript af 29de April 1776 §. 6. approberet til, indtil videre, at være gjældende Regel ved Færgestæderne i ovennævnte Syssel.

Islands Stifts- og Sønder-Amts Contoir den 19de Septr 1829.

L. KRIEGER.